Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

STÉTTABARÁTTAN
VIKUBLAÐ
MÁLSVARI
VERKAFÓLKS!

Ársáskrift ........... 3000kr.
Hálfsársáskrift........ 1800kr.
Ársfjórðungsáskrift.... 1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár).......... 5000kr.

22. tölublað | Þriðjudagur 14. júní | 6. árgangur | Verð kr. 60

# Áframhaldandi kjaraskerðingar?

## Um hvað er verið að semja?

Það sem nú hefur náðst samkomulag um er í fyrsta lagi sérkröfurnar. Það hefur Verkamannasambandið og nokkur verkalýðsfélög gengið að um 2,5% sáttatillögunni fyrir sérkröfurnar. Iðnaðarmannafélögin eiga eftir að gangast inn á þessa lausn, en það er nánast formsatriði því að þau munu ekki geta haldið áfram tilraunum til að fá eitthvað meira eftir að aðalsamningarnir eru komnir í gegn. Það verður því að telja að þessi þáttur samninganna sé afgreiddur.

Hvað varðar vísitölubæturnar, þá verður að telja að nokkuð hafi áunnist frá síðustu samningum. Nú er gert ráð fyrir að vísitalan verði reiknuð á þriggja mánaða fresti, en að auki að sérstakar verðbætur komi, ef laun skerðast meir en um 1%. Þessar verðbætur eiga að koma eftir á, en þetta 1% sem á vantar er áætlað að ná í gegnum sjálfa launahækkunina. Nema á fyrsta tímabilinu frá maí til ágúst á því tímabili verður 1% kjaraskerðing samkvæmt samkomulaginu.

Þrátt fyrir að þetta samkomulag sé skárra á pappírnum heldur en síðast, verður að gjalda vara við allri bjartsýni, því ríkisvaldið hefur áður tekið vísitöluna úr sambandi með bráðabirgðalögum. ASÍ hefur gengið að þessu samkomulagi án þess að taka þennan möguleika með í reikninginn og það veikir mjög þessa nýju vísitölubindingu. Það að auki er gengist inn á 1% kjaraskerðingu á fyrsta tímabilinu, sem gæti verið vísbending um að ASÍ sé tilbúið til enn frekari undanlátssemi með vísitölubindinguna.

Það sem eftir á að semja um er sjálf launahækkunin auk nokkura atriða varðandi bónus og akkorðsvinnu. Það sem nú er verið að ræða er nýtt tilboð frá ASÍ, en þar er gert ráð fyrir 12 þús. kr. lækkun á aðalkröfunni. Aðalkrafa ASÍ var komin upp í 117 þús. kr., en nýja sáttatillagan er 105 þús. kr. VSÍ hefur þegar svarað þessu og sagt að þessi nýja tillaga sé langt upp í skýjunum og þeir séu ekki til viðræðu um slíkar tillögur.

Eins og málin standa núna virðist allt vera stopp í bili og helgin verið notuð til að kanna stöðuna.



Ætlar hann einu sinni að gefast upp fyrir atvinnurekendum?

Það verður ekki annað sagt um þessa nýju tillögu ASÍ en að hún sé töluverð eftirgjöf frá þeirri kröfu sem þeir ætluðu að standa og falla með. Þessi mikla lækkun á aðalkröfunni er ákveðin vísbending um að nú eigi að hopa til að ná sem fyrst einhverju samkomulagi. Fulltrúarnir úti á Loftleiðum hafa þarna greinilega gefið eftir á röngu augnabliki án nokkurra verulegra tilrauna til að ná aðallaunakröfunni í gegn. Verkföllum sem neytt geta atvinnurekendur til að gefa eftir hefur ekki enn verið beitt. Verkafólk verður því að herða enn frekar á deigri forystu sinni til frekari aðgerða, annars er hætt við að forystan renni á rassinn með launahækkunina. Allavega bendir margt til að nú sé enn frekari eftirgjöf í vændum eftir þetta síðasta tilboð ASÍ.

## Verkföllin og yfirvinnubannið.

Í þessum kjarasamningum hefur verið bryddað upp á nokkrum nýjum aðferðum í kjarabaráttunni. Eftir að ljóst var að atvinnurekendur ætluðu ekki að svara tillögum ASÍ um kjarabætur var sett á yfirvinnubann 1. maí. Þessar aðgerðir urðu til þess að VSÍ setti fram gagntilboð 5. maí, sem gaf nokkrar hugmyndir um nægar kjarabætur. Yfirvinnubannið hefur nú staðið í rúman mánuð og hefur haft töluverð áhrif. Núna er þó farið að bera á nokkurri óþolinmæði sumra verkalýðsfélaga vegna yfirvinnubannsins og sum félög sérstaklega úti á landi hafa aflétt því. Brot á banninu hafa verið í algjöru lágmarki og varla teljandi þó hafa járniðnaðarmenn við Sigöldu farið í verkfall við virkjunina, en vinna svo langt fram á kvöld í sveitunum og þorpunum í kring. Þetta eru smábrot og þó þau séu fleiri verður að telja að nær algjör samstaða sé um yfirvinnubannið.

Fyrir verkafólk hefur yfirvinnubannið leitt tvennt í ljós annars vegar hvað dagvinnukaupið er óskaplega lágt, en hins vegar hvað hinn langi vinnudagur er óæskilegur. Hvort sem það hefur verið ætlunin eða ekki hefur þessi stytting vinnudagsins í 8 stundir orðið til þess að auka þeim skoðunum fylgi innan verkalýðsfélaganna sem berjast vilja fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku. Fólk finnur það í dag hvernig því hefur verið þrælað út með óhóflegri vinnu. Hvernig þessi langi vinnudagur hefur orðið til þess að það hefur tæpast haft nokkra möguleika á að eiga sér frístundir þar sem það gæti snúið sér að áhugamálum sínum.

Hins vegar munar töluvert um yfirvinnuna í launaumslaginu. Hjá fjölmörgum hefur yfirvinnan verið 30-40% af launum og á verðbólgutímum eins og núna munar töluvert um hvort mánaðarlaunin eru 70-80 þús.kr. eða 110-120 þús.kr. á mánuði og þaðan af meiri munur þegar fólk sér það svart á hvítu á launaumslögunum sínum hver laun þess raunverulega eru, ef það þrælar sér ekki út myrkranna á milli, verður það til að brýna fólk til aukinnar baráttu fyrir afnámi yfirvinnunnar á óskertum launum.

## Landsfjórðungaverkföllin.

Allsherjaverkföllin í hverjum landsfjórðungi hafa borið heldur lítinn árangur. Það er tæpast hægt að búast við því að eins dags allsherjarverkfall valdi þeim truflunum í framleiðslunni að atvinnurekendur kveinki sér undan þeim. Verkföll sem boðuð eru með viku fyrirvara og eiga að standa í einn dag hafa lítil áhrif hér á landi þó þau myndu hafa mikil áhrif í löndum þar sem miklar samgöngur stöðvuðust við slíkar aðgerðir. Það sama verður að segja um fyrirhuguð starfsgreinaverkföll. Það eina sem hugsanlega gæti réttlætt svona fálmkenndar aðgerðir væri að félögin notuðu þennan tíma til að halda fundi í félögunum og ræða stöðuna í samningum og framhald baráttunnar. Þetta var gert af einstaka félögum en mætti vera meira. Í Reykjavík hefðu verkalýðsfélögin t.d. átt að efna til stórra aðgerða eins og kröfugöngu og útifundi. Slíkar aðgerðir hefðu orðið til að gera þessi allsherjarverkföll mun áhrifameiri því að þessi verkföll eru til lítils annars en að sýna afl verkalýðshreyfingarinnar.

Eftir að þær fréttir hafa borist að VSÍ muni ekki ganga að þeim sáttatillögum sem nú hafa verið lagðar fram mun ASÍ hyggja á enn frekari aðgerðir og þó sennilega allsherjarverkföll.

Þau verkföll sem áhrifaríkust væru eru verkföll sem tæku yfir þær starfsgreinar sem viðkvæmstar eru eins og flugfélögin, skipaflutninga og vöruflutninga á landi. Ef þessar greinar væru stöðvaðar hefði það þau áhrif að allir aðdrættir stöðvuðust, en verkalýðshreyfingin gæti bætt því fólki sem tæki þátt í þeim, launatapið. Þannig gæti verkalýðshreyfingin unnið saman án þess að hætta á að verða að gefast upp vegna lítilla verkfallssjóða.

# Verkfallsvarsla VR

Það vakti athygli í allsherjarverkfallinu í Reykjavík 3. júni s.l. að strax uppúr hádegi tóku að hljóma í útvarpinu auglýsingar frá verslunarfyrirtækjum, bæði smáum og stórum. Þessar auglýsingar sem einna helst jöfnuðust á við jólaauglýsingaflóðið hljóðuðu flestar á þennan veg: "Opið í dag- Komið og verslið í verkfallinu".

Ástæðan fyrir því að verslanirnar geta haft opið þrátt fyrir verkfallið er að í smáverslunum stendur eigandinn sjálfur við afgreiðslu og stórverslanirnar kalla til starfa auk eigenda ættingja eigendanna (oft langt fram í ættir) auk "meðeigenda" (yfirleitt hluthafa fyrirtækjanna) Viss verslunarfyrirtæki hafa t.d. haft þann háttinn á að skrá verslunarfólkið sem hluthafa og neita síðan að því beri að leggja niður vinnu er til verkfalla kemur.

Þann 3. júní var sérlega auðvelt fyrir kaupmennina að halda verslunum sínum opnum þar sem engin verkfallsvarsla var af hálfu Verslunarmannafélags Reykjavíkur til eftirlits með því að verkfallsbrot væru ekki framin.

Þegar þannig er komið að atvinnurekendur ekki einungis brjóta verkfall það sem launastéttirnar hafa boðað á löglegan hátt, heldur sjá einnig ástæðu til að auglýsa verkfallsbrot sitt fyrir alþjóð er mælirinn fullur. Með þessu gera kaupmenn og eigendur verslunarfyrirtækja lítið úr verkfallsaðgerðum verslunarfólksins í þeirri vissu að verkalýðsfélögin og stjórnir þeirra hafi annað hvort ekki vilja eða getu til að standa á rétti sínum. Í ýmsum verslunum eru fáir í vinnu og atvinnurekendur hóta fólkinu oft uppsögnum ef það fari í verkfall. Í slíkum tilfellum og öðrum ámóta verða verkfallsverðir frá félaginu að koma og loka, þar getur afgreiðslufólkið ekki staðið eitt. Stjórn VR verður að teljast ábyrg fyrir þeim verkfallsbrotum sem framin voru þennan dag. Engin varsla býður þeim blátt áfram heim. Ef þannig er staðið að aðgerðum eru þær algjörlega marklausar og þjóna ekki tilgangi sínum fyrir verkalýðinn, þ.e. að knýja atvinnurekendur til samninga.

Verslunarfólk getur dregið marga lærdóma af þessu dagsverkfalli. Fimmtudaginn 16. júní n.k. verður starfsgreinaverkfall verslunarmanna. Þá er nauðsynlegt að skipuð verði verkfallsvarsla og félagar VR fjölmenni til starfa við vörsluna.

Verkfallsvarsla verslunarmanna getur verið að mörgu leyti erfið ekki síst vegna þess hve verslanirnar eru dreifðar og að ýmsir kaupmenn ganga á lagið og láta gervihluthafa og fjarskylda ættingja sína ganga inn í störf verslunarfólksins. Slík brot verða aðeins stöðvuð með sterkri og fjölmennri vörslu.

Atvinnurekendur hafa of lengi fengið að ákveða sjálfir hvað sé löglegt og hvað ekki í verkföllum. Samkvæmt þeirra skilgreiningu eru verkfallsbrot næsta fátíð þar sem þeim sé heimilt að setja annað fólk inn í störf þeirra sem eru í verkfalli. Verkafólk hefur alltof lengi látið slíkt viðgangast. Nú er kominn tími til að rísa upp. Kaup verslunarfólks eins og annars launafólks hefur verið þrýst langt niður fyrir það sem nægir til lífsviðurværis. Einungis með samstöðu og einarðri baráttu gegn stéttaróvininum er hægt að snúa þessari þróun við.

# Enga uppgjöf
# Herðum baráttuna

Einstakir samningamenn verkalýðssamtakanna sem setið hafa út á Loftleiðum í marga mánuði eru komnir með uppgjafartal og segja að verkalýðssamtökin séu búin að tapa á tíma í baráttunni við atvinnurekendur og ríkisvald þeirra. Vissulega hafa þessir menn nokkuð til síns máls, og geta þeir kennt sínum starfsaðferðum um. Yfirvinnubannið sem hófst 1. maí kom of seint, allan aprílmánuð unnu verkamenn gengdarlaus yfirvinnu, þannig að atvinnurekendur voru vel undirbúnir undir aðgerðir verkalýðssamtakanna. Þessir sömu uppgjafarmenn snérust gegn tillögum verkamanna sem vildu yfirvinnubann strax um miðjan apríl, atvinnurekendur áttu að fá að undirbúa sig. Síðar þegar hin óvæntu skæruverkföll hafnarverkamanna skullu á snérust þeir gegn þeim af heift eins og atvinnurekendur og sögðu þau ólögleg og fordæmdu þau í blöðum.

Þá var gripið til þeirra ráða að boða starfsgreinaverkföll og svæðisbundin verkföll verkalýðsfélaganna eftir landshlutum Það var gert í þeim augljósa tilgangi að koma í veg fyrir skæruverkföll verkafólks sem var orðið langþreytt á samningaþófinu og baráttuleysi verkalýðssamtakanna. Verkföll þessi sem ASÍ hefur ákveðið eru tiltölulega máttlaus og skaða verkafólk meira en atvinnurekendur sem óttast skæruverkföllin umfram allt.

Og nú fimm vikum eftir að yfirvinnubannið hófst eru allar líkur á því að 115 þús. kr. krafa ASÍ nái ekki fram að ganga, hvað þá vísitölutrygging launanna. Vissulega er orðið þröngt í búi hjá mörgum verkamannafjölskyldum vegna yfirvinnubannsins, en baráttunni verður að halda áfram með aðferðum skæruverkfalla verkafólks, ef takast á að brjóta andstöðu atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra á bak aftur. Forysta verkalýðssamtakanna sem að stórum hluta tekur afstöðu með rökum þeirra sem eiga atvinnutækin og græða á tá og fingri vill ekki beita þeim aðferðum sem duga í kjarabaráttunni. Þess vegna verðum við verkafólkið að leggja út í baráttuna, við höfum fullan siðferðislegan rétt til að heyja skæruverkföll hvað svo sem atvinnurekendur og málpípur þeirra innan verkalýðssamtakanna segja. Í áraraðir höfum við unnið gengdarlausan vinnutíma til að hafa í okkur og á. Launamisréttið í þjóðfélaginu hefur aukist í hlutfalli við aukinn vinnutíma okkar. Það er kominn tími til þess að við förum að beita öllum þeim aðferðum sem duga til að berjast fyrir styttri vinnutíma og lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku. Þegar við náum því markmiði kemur það auðvitað til með að skerða gróða auðmannanna því þeirra hagur er að þræla okkur sem mest út til að gjörnýta framleiðslutækin. Annars þyrftu þeir að fjárfesta meira og ráða fleiri við framleiðslutækin.

# LEIÐARI:

## GEGN RÁNYRKJU

Flestir mikilvægustu fiskistofnarnir við landið eru ýmist fullnýttir eða ofnýttir. Afleiðingin hefur orðið sú að afli á sóknareiningu fer stöðugt minnkandi. Dragnótabátar sem veiddu u.þ.b. 600 lestir á vetrarvertíð fyrir nokkrum árum veiða nú aðeins um þriðjung þess afla og það þrátt fyrir stórstígar og kostnaðarsamar framfarir í gerð veiðarfæra og fiskileitartækja. Lausnin sem íslenska auðvaldsþjóðfélagið hefur boðið alþýðu landsins upp á er að auka og efla stöðugt skipastólinn til þess eins að halda óbreyttri veiði. Er málum nú svo komið að ef sóknin yrði minnkuð í að vera aðeins fjórðungur núverandi sóknar yrði aflinn sem á land bærist sá sami innan fimm ára og hann er nú. Því er augljóst að um gífurlegar óráðsíufjárfestingar er að ræða í íslenskum sjávarútvegi, því síst eru þær minni í fiskvinnslunni.

Afkoma útgerðar og fiskvinnslu er samt sem áður mjög góð. Órækt sönnun þess eru nýafstaðnir aðalfundir SÍS, SH og SÍF svo ekki sé minnst á þær lífsvenjur sem íslenskir útgerðarmenn hafa tamið sér. Útgerðin og auðhringirnir hafa velt öllum kostnaði af fjárfestingunum yfir á herðar sjómanna, fiskvinnslufólks og annarrar alþýðu. Með því að kaupa upp forystulið verkalýðshreyfingarinnar og ala á sundrungu meðal launafólks innbyrðis hefur þeim reynst kleift að stórauka arðránið. Hjá stórum hluta sjómanna hefur þannig verið um svo til samfellda kjaraskerðingu að ræða frá 1967 því þó svo að fiskverð hafi hækkað með verðbólgunni þá hefur aflarýrnun, tilkoma nýrra lögbundinna sjóða og skerðing skiptaprósentunnar orðið til að rýra mjög kjör þeirra. Nú er ofveiðin hins vegar komin á svo alvarlegt stig og kjör sjómanna það léleg að útgerðarauðvaldið sér fram á að frekari uppbyggingu togaraflotans verði ekki lengur velt yfir á sjómenn. Því vill LÍÚ nú að uppbyggingin verði stöðvuð og sókninni beint í auknum mæli á aðra fiskistofna en þorskinn.

En auðhringirnir í fiskvinnslunni heimta stöðugt meiri þorsk. Og margir kunnir "athafnamenn" eiga enn eftir að fá sinn skuttogara þó svo að útgerðarfyrirtæki Lúðvíks Jósefssonar fyrrverandi sjávarútvegsráðherra hafi nú um daginn fengið sinn þriðja togara og Matthías Bjarnason núverandi sjávarútvegsráðherra sinn fyrsta. Sem vonlegt er krefjast mörg byggðarlög þess nú að fá togara þar sem afli neta-og togbáta fer stöðugt minnkandi með hverri vertíð og afli úr þeim nægir ekki til að halda uppi fullri atvinnu. Lausnin er þó ekki í því fólgin að fjölga togurunum því það mun aðeins leiða til viðkomubrests hjá þorskstofninum eins og síldinni forðum. Hins vegar verður að stöðva allar söluferðir íslenskra skipa til Evrópu. Þá verður að beina skipunum eins og hægt er inn á aðrar veiðar. Til þess þarf breytingar á mörgum þeirra og verulega hækkun fiskverðs. Fiskverð hér er í mörgum tilfellum aðeins helmingur þess sem nágrannalöndin borga. En umfram allt verður að krefjast þess að landanir íslenskra skipa verði skipulagðar svo jöfn atvinna verði í sjávarplássunum. Slík skipulagning veiða næst aldrei fram átakalaust þar sem hún er í algjörri andstöðu við eðli auðvaldsþjóðfélagsins.

Sú ósvífni íslenskra stjórnvalda að setjast nú að samningaborði með fulltrúum EBE hefur vakið furðu alls þorra almennings. Þeir Einar og Matthías reyna að vísu að halda því fram að aðeins sé rætt um gagnkvæma fiskverndun. Svo oft hafa þeir félagar þó verið staðnir að lygum að engum dylst að þegar þeir tala um fiskvernd eru þeir að undirbúa endurkomu breskra togara. Til að friða íslenska útgerðarmenn - ekki sjómenn - mun þeim verða boðið að taka þátt í endanlegri útrýmingu Norðursjávarsíldarinnar, Grænlandsþorsksins og Grænlandsrækjunnar. Tveir síðarnefndu stofnarnir voru undirstaða grænlenska atvinnulífsins. Í dag er grænlensk útgerð hins vegar í kaldakoli vegna "fiskverndunarstefnu" EBE frömuða og norsks og dansks útgerðarauðvalds.

Samfylking íslenskrar alþýðu gegn allri rányrkju og allri erlendri ásælni getur ein tryggt sjálfsákvörðunarrétt hennar.

11.6.'77.

**HVERNIG KEMST ÞÚ I SAMBAND VID KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15 opin mánud. til föstud. kl. 15:00 - 18:30.

Hafnarfjörður Fjóla Rögnv. Reykjavíkurvegi 24

Akureyri Jón Atli Játvarðsson Hafnarstræti 23

Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.

Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðastræti 7.

Neskaupsstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.

Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c. Keflavík.

# Einokun Flugleiða

Skömmu eftir að ríkisstjórnin lét fara frá sér þau fyrirmæli að "atvinnuvegirnir" þyldu aðeins um 4% kaupmáttaraukningu var gert stutt hlé á samningsviðræðum ASÍ og VSÍ. Ástæðan? Jú, Flugleiðir þurftu að nota húsakynnin undir aðalfund sinn. Í samningaviðræðum hafa atvinnurekendur verið ósparir á að gefa út yfirlýsingar um þá verðbólguskriðu og atvinnuleysi er myndi leiða af því að "lágu launin" yrðu hækkuð í 100þús. krónur á mánuði. Þannig er það dökk mynd sem atvinnurekendur draga upp þegar semja á um kjör verkafólks - en á aðalfundum hlutafélaga eða fyrirtækja þeirra kemur annað í ljós.

**Þeir stóru græða.**

Á aðalfundi Flugleiða var gefið upp að gróðinn 1976 hefði verið 462 milljónir auk þess sem afskriftir félagsins námu 466milljónum. Allt frá 1974 er rekstrarafkoma Flugleiða sögð hafa farið stöðugt batnandi, en þá var tapið 425 milljónir. En nú skilar fyrirtækið sem sagt 462 milljónum í gróða. Þeim veitir víst heldur ekki af þeim Flugleiðamönnum að sýna góða afkomu í ár. Því að á næsta ári hyggur félagið á margmilljarða fjárfestingu, flugvélakaup og slíkar fjárfestingar krefjast ríkisábyrgðar. Ríkisábyrgð fyrir háum erlendum lánum til handa Flugleiðum mun ugglaust leiða til versnandi stöðu Íslands á erlendum lánamörkuðum og verri lánskjara. Eða eins og forsætisráðherra orðaði það svo skilmerkilega: "Við höfum lifað um efni fram". Því

Framhald á síðu 3.

**FLUGLEIÐIR HF: - Dótturfyrirtæki og hlutdeildarfyrirtæki.**

Dótturfyrirtæki:

International Air Bahama Ltd.

Velta $14.1 milljón (u.þ.b. 2.7 milljarðar ísl. króna.)
Leigir m.a. eina flugvél (DC-8) frá Flugleiðum hf.
Skráð í Nassau, Bahama.
Félagið er í fullu í eign Hekla Holdings Ltd. sem aftur er eign Flugleiða hf. Enginn rekstur er á vegum Hekla Holdings Ltd.

Hotel Esja hf.

Velta 318 milljónir 1976.
Sagt tap á rekstri 1976.

Hlutdeildarfyrirtæki:

Cargolux Airlines International S.A.

Velta 1976 var $53.3 milljónir (u.þ.b. 1o.1 milljarður ísl króna), 31% aukning frá 1975.
Meginþáttur starfseminnar er fragtflug á alþjóðlegum flutningamarkaði (50% flutninganna eru til og frá Austurlöndum fjær).
Í árslok keypti félagið 3 vélar af gerðinni CL-44 sem það hafði haft á kaupleigusamningi, fyrri eigendur voru Flugleiðir hf og sænskt fyrirtæki. Auk þess rekur félagið þrjár vélar af gerðinni DC-8-63, eru tvær þeirra á kaupleigu-en ein á leigusamningi.

Starfsmenn Cargolux eru 380.

Ferðaskrifstofan Úrval hf.

Nettóvelta 1976 var 219 milljónir.

Kynnisferðir ferðaskrifstofanna sf.

Eignahlutur Flugleiða er 45%, aðrir eigendur eru ferðaskrifstofur í Reykjavík.
Ársvelta 77 milljónir.

Flugfélag Norðurlands hf

Eignarhlutur Flugleiða er 35%
Veltan 1976 var 66 milljónir.
Félagið á eina 19 farþega flugvél af gerðinni Twin-Otter-200.

Hótel Húsavík hf.

Eignarhlutur Flugleiða 16.7 %
Velta 80 milljónir.
Starfsmenn 38.

Hotel Aerogolf S.A.

Hótelið er í Luxemburg.
Eignarhlutur Flugleiða í því er 20%.
Veltan 1976 var 71.2 milljónir L. fr.
Starfsmenn 81.

Önnur dótturfyrirtæki Flugleiða hf eru Söluskrifstofur þeirra í eftirtöldum löndum:

| | |
|---|---|
| Luxemburg | : Loftleiðir Icelandic Airlines, S.A. Luxemburg |
| Frakkland | : - " - S.A.R.L. Paris. |
| USA | : Icelandic Airlines Inc New York |
| Columbia | : Icelandic de Columbia Ltda Bogota, Columbia. (Síðastnefnda skrifstofan var lögð niður í okt. sl.) |



Vélar félagsins innanlands sem utan voru þétt setnar síðasta árið, góð afkoma byggist að sögn forstjóra fyrirtækisins eingöngu á góðri nýtingu - og má ekkert út af bera til að tap verði á rekstrinum. Starfsmenn Flugleiða fá því væntanlega lítið að njóta bættrar rekstrarafkomu félagsins.



# ÚR BARÁTTUNNI

**AÐGERÐIR ÞANN 21. JÚNÍ**

Starfshópur um opið hús hélt fund að vanda kl. 9.30. miðvikudaginn 8. júní. Tæplega 30 manns mættu og hófst fundurinn á því að Jón Kjartansson úr Vestmannaeyjum fulltrúi úr samninganefnd ASÍ svaraði fyrirspurnum. Uppgjafatónninn í honum gaf greinileg til kynna stöðuna við samningaborðið enda reyndi Jón að bera blak af sjálfum sér og sagði að hann væri álitinn vera svarti sauðurinn í samninganefndinni og líklega sá eini sem hefði viljað skæruverkföll. Jón stoppaði stutt við og þegar hann var farinn snérust umræðurnar um það hvað starfshópurinn gæti gert nú þegar ASÍ-forystan væri að guggna. Voru menn á því að halda kröfugöngu og útifund að Hótel Loftleiðum 21. júní. En þá kom upp spurningin um það hvort ganga ætti til að leggja áherslu á kröfu verkalýðsins um lífvænleg laun fyrir dagvinnu eða til að þrýsta á ASÍ-forystuna og stéttasamvinnustefnu hennar. Um þetta urðu miklar umræður og úr varð að greidd voru atkvæði milli tveggja tillagna um þessi mál. Tillagan um að skora á ASÍ-forystuna að halda útifund og kröfugöngu til að leggja áherslu á 100 þús. kr. að öðrum kosti myndi starfshópurinn gera það, fékk 16 atkvæði en tillagan að gengið skildi til að leggja áherslu á lífvænleg laun fyrir dagvinnu fékk 8 atkvæði. Síðan skemmti Þorlákur Mortens með nokkrum baráttulögum. Að lokum var svo gerð sú málamiðlun að í aðgerðunum yrði barist fyrir kröfu ASÍ-forystunnar og lögð áhersla á baráttuna fyrir lífvænlegum launum fyrir dagvinnu jafnframt. Því merkilegt nokk, ASÍ-forystan hefur þá kröfu á langtímastefnuskrá sinni. Næsti fundur verður miðvikudaginn 15. júní kl. 9.30 að Hallveigarstöðum.



**NÆR SJÓNVARP TIL ALLRA LANDSMANNA?**

Nú þegar sjónvarpið er að breyta tækjakosti sínum fyrir tugi milljóna til að senda út í litum er rétt að athuga hvort allir landsmenn hafi tök á því að sjá sjónvarp. Víða í sveitum landsins nær fólk ekki útsendinum sjónvarpsins eins og t.d. í Svartárdal í A-Húnavatnssýslu eða þá að sjónvarp er oft á tíðum mjög óskýrt eins og í Saurbæ í Dalasýslu. Sjómenn sem eru á miðum suður austur og vestur að landinu ná ekki sjónvarpinu. Forráðamenn sjónvarpsins eru ekki að bera hag allra landsmanna fyrir brjósti, þegar þeir leggja út í breytingar upp á tugi millj. sem við sem afnotagjöldin borgum stöndum straum af. Þeir láta undan heildsölum og kaupmönnum sem vilja fá að mata krókinn með innflutningi litsjónvarpa. Það verður efnafólkið, sem fyrst og fremst kaupir litsjónvörp sem kosta yfir 350 þús. kr., eða 4ra mánaða laun verkamanns. Þess vegna bera forráðamenn sjónvarpsins aðeins hagsmuni þeirra [illegible] fyrir brjósti.

# Þjóðfrelsisbaráttan í Afríku




Aðalastæðan fyrirahuga Marokkó og Máretaníu fyrir Vestur-Sahara svæðinu er hversu auðugt það er af malmum. Serstaklega eru fosfatnamurnar við Bu Craa verðmætar. Polisario-hreyfingin hefur stöðvað alla vinnslu þar siðan striðið hofst. Bærinn Zoverate sem Polisario reðst a liggur mitt i þessu auðuga svæði.

## Sahara: Polisario sigrar Máritaniska hersveit

Frelsishreyfingin Polisario i Sahara hefur nu barist i tæp fjögur ar gegn nylendustefnu og hernami. Fyrst gegn Spanverjum en nu gegn Marokko og Maretaniu sem skiptu landinu a milli sin eftir að Spanverjar neyddust til að lata af yfirraðum yfir þessari nylendu sinni. Allan þennan tima hafa alls kyns vesturlenskir "utanrikissérfræðingar" reynt að gera litið ur barattu þessarar hugrökku þjoðar. En eftir siðustu atburði hafa slikar raddir hljoðnað mikið.

Þann 1. mai s.l. foru hersveitir Polisario inn i Maritaniu og afvopnuðu, i vel heppnuðu ahlaupi, hersveitir umhverfis namubæinn Zoverate, en þær voru taldar eitt sterkasta vigi Maretaniuhers, vel vopnum bunar og undir stjorn fjölda franskra hernaðarraðgjafa.

Skv. frasögn Polisario voru um 60 manns felldir og svipaður fjöldi særðist i liði Maritaniu i þessu ahlaupi.

Herlið fra Marokko hefur hins vegar ávallt verið talið hættulegasti andstæðingur frelsishreyfingarinnar. Nu hefur hins vegar aukist svo stuðningur og samuð með malstað alþyðu Sahara meðal almennings i Marokko að baráttuhugur herliðsins þaðan er ekki mikill.

Stuðningur við "lyðræðislega lyðveldið Sahara" (DARS) hefur einnig aukist mjög i Afriku og Arabarikjum. DARS fær nu að senda aheyrnarfulltrua a fundi hja arabiska "Rauða halfmananum" þvert gegn vilja Marokko og Maretaniu. Lönd eins og Irak og Efri-Volta sem aður studdu hernamsliðið styðja nu malstað Polisario.

(Byggt a frasögn Klassekampen 14. mai s.l.)

## Fjöldamorð í Eþíópíu

Milli 3-500 studentar voru myrtir af stjornarhermönnum og mönnum ur "bændaher" stjornarinnar i höfuðborg Eþiopiu, Addis Abeba um s.l. manaðarmot.

Fjöldamorðin hofust i fjorum hverfum i höfuðborginni þegar bændur og hermenn handtoku studenta sem grunaðir voru um að dreifa aroðri fjandsamlegum stjorninni. A.m.k. 300 voru skotnir skömmu a eftir. Bara i Menlik-sjukrahusið var komið með 170 lik. "Bændurnir" eru meðlimir i nyja "bændahernum" sem sjornvöld i Eþiopiu hafa sett a stofn.

Þetta eru fastasveitir skipaðar bændum og landlausum landbunaðarverkamönnum og er þeim ætlað að berjast gegn ymsum uppreisnarhopum i Eþiopiu og auk þess frelsishreyfingunni i Eritreu. Bændaherinn er því ekkert annað en hluti kugunartækja stjornarinnar.

Þessi uppbygging stjornarhersins i Eþiopiu tengist siaukinni vopnaðri barattu alþyðu Eritreu fyrir sjalfsakvörðunarretti sinum. Fulltrui ELF, sem eru önnur tveggja frelsishreyfinga i Eritreu tilkynnti fyrir skömmu i Kairo að eþiopiska stjórnin raðgeri ny utryningarstrið a hendur ibuum Eritreu. Fjöldamorðin í Addis Abeba bera vitni um að stjornin bui sig nu undir slika utrymingarherferð.

Samtimis hafa borist frettir um að kubanskir hernaðarraðgjafar seu nu komnir til Eþiopiu til að þjalfa stjornarherinn.

Þjoðhöfðingi Eþiopiu, Mengistu Haili Mariam for fyrir skömmu til Moskvu i opinbera heimsokn. Sama daginn og hann lagði af stað i þa för barust frettir um að farmur með 45þus byssum fra Tekkoslovakiu, A-Þyskalandi og Jugoslaviu hafi borist til stjornarhers Eþiopiu.

(Lausl. þýtt úr Klassekampen 6. mai 77.).



## Sovéskir hernaðarráðgjafar reknir úr landi

Í lok maí vísuðu súdönsk yfirvöld úr landi öllum sovéskum hernaðarráðgjöfum, 90 að tölu, sem verið höfðu í landinu. Brottrekstur þeirra er mikill ósigur fyrir sovésku sósíalheimsvaldastefnuna.

Afskipti Sovétríkjanna af málefnum Súdan hófust með svokallaðri "hernaðaraðstoð" þar sem Sovétríkin notfærðu sér brýna þörf súdana fyrir vopn til að verjast ógnunum heimsvaldasinna eftir sigurinn í byltingunni 25. maí 1969. Sovétmenn seldu súdönum á uppsprengdu verði mikið af úreltum vopnum auk véla til landbúnaðarframleiðslu. Þessi "aðstoð" þeirra steypti súdönum því í tugmilljóna skuldir við Sovétríkin. Síðan notfærðu sovétmenn sér aðstöðu sína til að komast yfir mikið magn af baðmull og öðrum hráefnum súdana, auk þess sem þau þrýstu á stjórnvöld í Súdan er þau töldu þörf á. Á milli áranna 1969 og 1971 sexfaldaðist t.d. innflutningur sovétmanna á baðmull frá Súdan, og nam 1971 26% af heildar baðmullarútflutningi súdana. Sovétríkin urðu þannig stærsti "viðskiptavinur" súdana án þess að borga eyri fyrir í erlendri mynt. Það gekk aðeins upp í "skuldina". Baðmullina seldu sovésku heimsvaldasinnarnir síðan á heimsmarkaði á mun hærra verði.

Í baráttu við hitt risaveldið, USA hafa sovétmenn reynt með öllum ráðum að ná tökum á Súdan, einkum vegna hernaðarlegs mikilvægis landsins en það liggur við Rauðahafið. Til að ná þannig pólitískum yfirráðum yfir Súdan og þröngva þeim til að hætta and-heimsvaldasinnaðri baráttu sinni hafa Sovétríkin reynt að styðja við bakið á Moskvusinnuðum öflum bæði innan og utan Súdan. Þessi öfl hafa síðan margoft staðið fyrir uppreisnartilraunum gegn Nimeri forseta Súdan. Þessar tilraunir þeirra hafa þó ekki borið árangur.

Í byrjun þessa árs hættu sovétmenn öllum vopnasendingum til Súdan og neituðu að standa við gerða samninga um vélakaup. Alþýða Súdan hefur fyrir löngu séð gegnum svikavef heimsvaldasinnanna, sem kenna sig við sósíalisma, og segjast koma sem vinir sem vilja aðstoða. Þess vegna er það mikill sigur fyrir alþýðu Súdan að hafa nú rekið sovésku "hernaðarráðgjafana" úr landi.

(byggt á Hsinhúa news)



## ÚR BARÁTTUNNI

Brot gegn yfirvinnubanninu.

Yfirvinnubannið sem staðið hefur í rúmar 5 vikur virðist vera farið að þreyta atvinnurekendur ef marka má af brotum gegn því. Undanfarnar vikur hafa verkfallsverðir Dagsbrúnar stöðvað marga eigendur atvinnutækja og verkamenn sem hafa unnið á laun eftir klukkan fimm. Í fóðurblöndu SÍS við Sundahöfn hefur komið til marg ítrekaðra brota, þegar verkstjórar hafa hlaðið flutningabíla sem fara út á land. Margir smáverktakar hafa einnig verið að vinna á kvöldin og um helgar. Eigendur pakkhúsa hafa afgreitt vörur og hlaðið bíla í banni verkalýðssamtakanna. Okkur Dagsbrúnarmönnum er einnig kunnugt um mikið af brotum á starfssvæðum annara verkalýðsfélaga, en við erum þeir einu sem höfum verkfallsvörslu eftir klukkan fimm á daginn. Það eina sem við megum gera þegar við uppgötvum brot, er að biðja viðkomandi yfirvinnubannsbrjóta að hætta strax, engum frekari aðgerðum megum við beita. Forystumenn verkalýðssamtakanna standa gegn því að algjört verkfall sé sett á þau fyrirtæki sem brjóta, eða þau séu látin greiða skaðabætur til verkfallssjóðs viðkomandi verkalýðsfélags. Þannig gefur það auga leið að það er engin áhætta sem atvinnurekendur taka, þegar þeir láta brjóta bann verkalýðssamtakanna aftur og aftur. Þess vegna fáum við verkfallsverðir það oft á tilfinninguna að starf okkar sé vonlaust, þegar undirlægjuháttur okkar forystumanna við atvinnurekendur er svo alger.

Við skorum á alla stéttvísa verkamenn og verkalýðssinna að tilkynna okkur umsvifalaust ef þeir verða varir við að bann verkalýðssamtakanna sé brotið. Sími verkfallsvörslu Dagsbrúnar er: **25633**

STOFNUN LIÐSMANNASAMTAKA GEGN USSR

FRAMHALD AF BAKSÍÐU

þessari tillögu voru Sovétríkin og Kúba. Þetta tengist sífellt vaxandi tengslum sósíal-heimsvaldasinnanna við borgarastétt Argentínu, bæði efnahagslegum og pólitískum. Enda eru Moskvusinnarnir í Argentínu kallaðir daglegu tali verslunaragentar fyrir Sovét. Réttnefni, þar sem þeir hafa margsinnis tekið afstöðu gegn frelsisbaráttu í landinu.

Hvernig ætlar svo hin nýstofnaða "Baráttuhreyfing" að snúast í Argentínumálinu? Er ekki fremur ólíklegt að hún kryfji orsakir þess að skurðgoðin á Kúbu og Sovét styðja eina grimmustu harðstjórn sem um getur í S-Ameríku?

Samtök sem setja sér sem markmið alm. baráttu gegn heimsvaldastefnunni en ganga samt framhjá hættunni af Sovétríkjunum eru ekki and-heimsvaldasinnuð nema í orði. Og gegn þeim hljóta marx-lenínistar að berjast. Um seinustu helgi var grafið lík Víetnamnefndarinnar en endurskoðunarsinnar vöktu upp draug sem aðrir and-heimsvaldasinnar verða að kveða niður hið bráðasta.

### Verkefnin framundan

Verkefni marx-lenínista í and-heimsvaldasinnuðu baráttunni framundan eru að mínu mati fyrst og fremst þríhliða:
1) Efling á starfinu innan Samtaka herstöðvaandstæðinga.
2) Styrking Palestínunefndarinnar og stofnun Grænlandsvinafélags. 3) Undirbúningur að stofnun samfylkingar gegn Sovétríkjunum.

Síðast talda verkefnið er mjög mikilvægt. Það hefur sýnt sig að, eins og er, er ekki unnt að virkja SHA í þessari baráttu. Eina leiðin til að fá SHA til að taka upp baráttu gegn báðum risaveldunum er að stórefla og skipuleggja starfið að því máli. Til þess þarf að koma á fót samfylkingu sem nær til víðari hóps en flokksmanna í marx-lenínísku samtökunum. KFÍm-l og EIKm-l ættu að geta sameinast um að leggja krafta í þetta mikilvæga verkefni. Víetnam-ráðstefnan sýndi allavega að samstöðumöguleikinn er fyrir hendi í alþjóðamálum.

Nú þegar ætti að koma á fót samstarfsnefnd um þetta mál. Nefndin á ekki að vera flokksbundin og skipuð fulltrúum pólitískra samtaka heldur vera á einstaklingsgrundvelli. Nefndin gæti hafið þegar undirbúning að fjöldaaðgerðum 21. ágúst og notað þær til að stofna samfylkingu um baráttuna gegn sósíalheimsvaldastefnunni. Það þarf ekki að fjölyrða um mikilvægi þessa máls. Íslenskir marx-lenínistar standa ekki undir nafni ef þeir leggja ekki alla krafta í baráttunni gegn stríðshættunni með vakningu fjöldans til baráttu og auknum upplýsingum til almennings.

Flokkadrættir marx-lenínista mega ekki veikja þessa baráttu. Óflokksbundnir marx-lenínistar, félagar í Kommúnistaflokknum og EIKm-l verða að taka höndum saman.

Félagar. Fram til stofnunar samstarfsnefndar gegn sósíalheimsvaldastefnunni.

mvs.

# Einokun Flugleiða

FRAMHALD AF SÍÐU 2.

forsætisraðherrann litur einmitt þannig a að það se alþyða þessa lands sem eigi að standa undir fjarfestingum einokunarhringjanna. Borgaralegt rikisvald, hvort sem fulltruar þess kenna seg við "vinstri" eða "hægri" stefnu, gengur nefnilega alltaf fyrst og fremst erinda einokunarhringjanna, það er valdatæki i höndum þeirra.

Hver hinn raunverulegi hagnaður af rekstri Flugleiða eða annarra hringja er, fa launþegar aldrei að yita. Hann er rækilega falinn i rekstrinum i millifærslum milli hinna ymsu dotturfyrirtækja og einnig i viðskiptum við aðra hringi. -Lockhead var ju ekkert einsdæmi.

### Flugleiðir-einokunarhringur.

Í ársskýrslu Flugleiða fyrir 1976 kemur fram að dotturfyrirtæki og hlutdeildarfyrirtæki þess eru nu orðin atta auk söluskrifstofa erlendis, og ýmissa fyrirtækja sem falla beint undir moðurfelagið (s.s. Hotel Loftleiðir og Bilaleiga Loftleiða). Skra yfir þessi fyrirtæki auk upplysinga um veltu birtist með þessari grein.

I ljos kemur að samanlögð velta fyrirtækjanna er um 30 milljarðar isl. krona. Auk þess eru Flugleiðir mjög tengd Eimskipafelagi Islands sem var aður en sameiningin atti ser stað, stærsti hluthafi i Flugfelagi Islands. Su drottnunaraðstaða sem þetta faveldi hefur nað á öllum vöru- og folksflutningum til, fra og um landið er fyrir löngu orðin ognvekjandi. Smafyrirtæki sem þrifust i skugga risanna og sinntu þeim sviðum er þeir hirtu ekki um, missa nu sjalfstæði sitt eitt af öðru. Sem dæmi um slík felög ma nefna Flugfelag Norðurlands, sem nu telst hlutdeildarfyrirtæki Flugleiða. Það fyrirtæki hafði haldið uppi samgöngum milli staða fyrir norðan og austan sem Flugfelag Islands taldi ekki arðbært að fljuga til. Þegar ljost var hversu goður grundvöllur var fyrir starfsemi þess foru Flugleiðir að hota að kaupa litlar velar til að keppa við það. Arangurinn varð lika sa að nu telst felagið vera hlutdeildarfelag Flugleiða.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
22. tbl. 6. árg. 14/6 1977.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




## BSRB: Samningaviðræðum frestað

Nú hefur orðið að samkomulagi milli samninganefndar BSRB og ríkisins að fresta öllum samningaviðræðum fram til 15. ágúst. Var það ríkið sem fór fram á þennan frest, frestuninni fylgdi sá fyrirvari að "fullt tillit verði tekið til þess við ákvörðun launahækkana í væntanlegum samningum að samningsgerð dregst fram yfir 1. júlí 1977". Þrátt fyrir að aðalsamninganefndin hafi frestað viðræðum við ríkisvaldið eru sérkröfur félaganna áfram ræddar.

Það er augljóst að ríkisvaldið telur heppilegra að hafa aðeins eitt járn í eldinum í einu, þ.e. samninga ASÍ. Hitt hefði manni þótt eðlilegra að BSRB styddi við bakið á verkafólki í landinu með því að loka ekki fyrir samningaviðræður heldur halda sínum málum vakandi. Samræmdar aðgerðir þessara tveggja samtaka sem innihalda meginþorra alls launafólks í landinu hefðu óneitanlega ef rétt hefði verið haldið á málum getað orðið sterkt vopn gegn borgurunum og ríkisvaldi þeirra. En slíkar aðgerðir eru illmögulegar meðan borgararnir og handbendi þeirra innan verkalýðshreyfingarinnar neita allra ráða til að sundra þessum hópum og etja upp gegn hvor öðrum í stað þess að beita afli sínu að hinum raunverulega óvini.

Það fer ekki milli mála að samið verður um sultarlaun fyrir ASÍ. En hvers væntir BSRB? Einhvers betra? Sú "glæpaklíka" sem ræður yfir atvinnutækjunum hér á Íslandi ætlar sér greinilega ekki að láta neitt af sínum hlut til að -þrengds verkafólks. Samanber orð eins þeirra í sjónvarpi fyrir skömmu þar sem hann sagði að samningar um kauphækkun væru aðeins spurningin um það hversu mikið ætti að fella gengið. Til að ráða niðurlögum þessarra herra þarf launafólk í landinu að standa saman.

Það er augljóst að ríkisvaldið verður að bjóða samninga ASÍ áður en hún gerir BSRB nokkuð tilboð. Sú sáttatillaga sem ríkisvaldið lagði fram í deilu ASÍ og VSÍ (og hinir háu herrar í Alþýðusambandinu eru nú farnir að ræða þvert ofan í fyrri kröfur) yrði ef hún yrði boðin BSRB hrein kjaraskerðing fyrir alla fjölmennustu launaflokkana en fæli-e.t.v. í sér örlitla hækkun (innan við 5% til áramóta) fyrir allra lægstu flokkana. Ástæður þessa eru fyrst og fremst vísitöluákvæði í samningi BSRB sem færði þeim t.d. 6,73% launahækkun fyrsta júní, auk þess sem opinberir starfsmenn fá 4% launahækkun 1. júlí. Þess vegna þýðir ekki fyrir ríkisvaldið að ætla sér að bjóða BSRB slíka "sáttatillögu". Hitt vita borgararnir ofur vel að ef sáttanefnd leggði einhverjar raunhæfar tillögur fyrir BSRB núna gæti samninganefnd ASÍ alls ekki samþykkt hinn smánarlega sáttagrundvöll þeirra.

Hér á því greinilega að hafa gamla lagið á. Fyrst ASÍ, síðan fær BSRB úthlutað einhvers konar viðmiðunarlaunum. Og hví þá verkfallsrétt?

Eins og lesendum STÉTTABARÁTTUNNAR hafa vafalaust tekið eftir hafa birst hér í blaðinu af til frá áramótum greinar sem fjalla um kjara-og lýðréttindabaráttu opinberra starfsmanna. Þessar greinar eru fyrst og fremst þáttur í þeirri umræðu sem fer fram meðal félaga BSRB um þessi mál. Viljum við eindregið hvetja lesendur til að taka þátt í þessari umræðu og þróa hana áfram, bæði á vinnustöðum sínum og eins hér í blaðinu.

## Starf herstöðvaandstæðinga á Ísafirði

Á Ísafirði hefur í vetur verið töluvert starf á vegum herstöðvaandstæðinga. Það hófst með almennum fundi á síðasta hausti, þar sem starfið var rætt og safnað liði. Voru eftir þann fund komnir milli 60 og 70 manns á liðsmannalista samtakanna. Af þeim hefur tæplega helmingur verið virkur í fjórum starfshópum. 1. desember var svo haldin fjölskrúðug baráttuvaka, sem liðsmenn undirbjuggu og var hún auglýst með dreifibréfi, sem einn starfshópurinn samdi, og borið í hvert hús á Ísafirði og í nágrannabæjum. Var baráttuvakan fjölsótt. 30. mars var minnst með því að Dagfara, sem þá kom út var dreift í hvert hús á Ísafirði og í nágrannabyggðum. Það sama var gert á 1. maí með sérstöku dreifibréfi stíluðu til vestfirsks verkalýðs. Með þessu hefur málinu stöðugt verið haldið opnu og töluverð virkni verið í starfshópunum og mikilvægi þess er þátttakendunum í hópunum vel ljós. Eru þeir sammála um, að ef samtökin eigi að ná markmiði sínu, verði þau að vera virk liðsmannasamtök.

Vetrarstarfinu lauk svo með hvítasunnuferð í Aðalvík á Hornströndum. Var gist tvær nætur í Aðalvík við náttúruskoðun, gönguferðir og kvöldvökur. Meðal annars var gengið á Straumnesfjall og skoðaðar ónýttar stórframkvæmdir verndaranna þar. En 1954 hófst kaninn handa þar og lagði veg uppá 500 m. hátt fjallið, frá Aðalvík og eftir því endilöngu. Það voru reistar rammgerðar stórbygging ar, sem standa enn, og þjónuðu í fjögur ár sem radarstöð. Síðan var allt yfirgefið og herinn, sem varið hafði ótrúlegum upphæðum í þessar framkvæmdir, var ekki einu sinni látinn hirða eftir sig. En auk þessara yfirgefnu mannvirkja er fjaran öll, við Látra í Aðalvík þakin ryðguðum olíufötum og öðrum sóðaskap. Síðasta daginn var gengið yfir á Hesteyri í Jökulfjörðum og þangað var hópurinn sóttur eftir velheppnaða ferð.

Ísland úr NATO

herinn burt





Í fyrra keyptu Sovétríkin mikið magn af kaffi af angólsku ríkisstjórninni fyrir 180 escudos á hvern sekk, þótt heimsmarkaðsverð sé á milli 467 og 472 escudos. Viðskiptin gáfu Sovétríkjunum 30. millj. dollara í nettó gróða. Þetta stendur í áhugaverði grein um stöðuna í Afríku í nýútkomnu hefti af Marxistiskt Forum. Ofan greint dæmi er aðeins eitt að mörgum sinnar tegundar.

## Stofnum liðsmannasamtök gegn USSR

Á fulltrúa-ráðstefnu Víetnamnefndarinnar 4. júní sl. var ákveðin gagngjör breyting á skipulagi samtakanna samhliða því sem sett var ný stefnuskrá og nafni breytt í "Baráttuhreyfingin gegn heimsvaldastefnu".

Ráðstefna þessi var um margt lærdómsrík fyrir max-lenínista. Þarna notfærðu trotskyistar og Alþýðubandalagsmenn sér meirihluta sinn til að kljúfa þá samstöðu sem undanfarin ár hefur ríkt innan "vinstrihreyfingarinnar" um Víetnamnefndina.

Þetta var gert á tvennan hátt. Í fyrsta lagi með setningu laga er útiloka Palestínunefndina frá þátttöku í hreyfingunni. Í öðru lagi með samþykkt stefnuskrár sem gengur þvert á stefnuskrá mark-lenínista í alþjóðamálum og gerir þeim raunar ókleift að starfa í hreyfingunni. Skipulagsbreyting hreyfingarinnar fólst í því að hún var gerð að "almennum and-heimsvaldasinnuðum samtökum". Þessi breyting krafðist þess að sett væri lágmarksstefnuskrá og verkefni samtakanna skilgreint.

Marx-lenínistar lögðu til að í stefnuskránni kæmi fram að andstæðingurinn í andheimsvalda-baráttunni væri heimsvaldastefnan í öllum hennar myndum. Þessi tillaga fól í sér svigrúm fyrir allar stefnur á "vinstri kantinum" til að starfa í hinni nystofnuðu hreyfingu. Þessari tillögu höfnuðu trotskyistar og fylgismenn þeirra úr Alþýðubandalaginu. Féllu atkvæðin 11 gegn 9. Þess í stað var samþykkt að USA væri höfuð óvinur og fylgisríki þeirra. Í stað "lágmarksstefnuskrár" sem trottar hafa svo oft hampað var því troðið inn ákvæði sem óhjákvæmilega kemur til með að kljúfa and-heimsvaldasinnuðu hreyfinguna. Er þetta raunar stórfurðulegt ef litið er t.d. á stefnu samtaka herstöðvaandstæðinga - (SHA) sem einmitt halda sig við lágmarksgrundvöll í þessu máli.

Stuðningur við Sovétríkin.

Það er afstaða okkar marx-lenínista að hættulegasti óvinur heimsfriðar í dag sé heimsvaldastefna Sovétríkjanna. Við sættum okkur ekki við "andheimsvaldasinnaða" hreyfingu sem gengur gjörsamlega framhjá þeirri staðreynd. Einhliða gagnrýni á annað risaveldanna merkti beinan og óbeinan stuðning við hitt og það er sem er að gerast í "Baráttuhreyfingunni". Barátta slíkra samtaka hlýtur ávallt að vera fölsk. Hún er ekki raunveruleg andheimsvaldasinnuð "barátta". Tökum dæmi. Hvernig er hægt að aðskilja baráttuna gegn USA og USSR í Argentínu. "Samstaða" talar um kúgun herforingjstjórnarinnar þar og nauðsyn stuðnings við frelsishreyfingu argentínskrar alþýðu gegn amerískа imperíalismanum. En hvað með sovétmenn? Á þingi SÞ var borin upp tillaga af þriðja heimsríkjum og Kína um gagnrýni á Argentínustjórn fyrir brot á mannréttindum. Meðal þeirra ríkja sem atkvæði greiddu á móti

FRAMHALD Á SÍÐU 3.

## Aðgerðir gegn samningum við E.B.E.

Fimmtudagseftirmiðdaginn 9. júní s.l. fengu vegfarendur í Austurstræti og á Lækjartorgi afhent dreifirit auk þess sem þar mátti líta menn með borða er á var letrað: "Enga samninga við EBE" og "gegn rányrkju"

Fyrir þessari aðgerð stóðu félagar í Landhelgissamtökunum en þeir nutu aðstoðar fleirri einstaklinga. Aðgerð þessari var fyrst og fremst beint gegn komuGunderlachs og Judds til landsins daginn áður og samningamakki þeirravið íslenska ráðherra. Góðar viðtökur vegfarenda við aðgerðum "andófsmanna" og efnisinnihaldi dreifiritsins benda óneitanlega til þess að almenningur fordæmi allt afsal auðlinda okkar. En þrátt fyrir skýlausa afstöðu almennings gegn samningunum eru ráðamenn stöðugt tilbúnir til samingamakks. Fréttir frá Brussel benda eindregið til þess þess að þegar ráðherrar okkar tala um fiskvernd þá séu þeir að undirbúa samninga um "gagnkvæmar fiskveiðiheimildir". Því er nauðsynlegt að vera á verði.



"Við komum ekki hingað til að semja" sagði Gunderlach við íslenska fréttamenn. -Er nema von að spurt sé : "Til hvers komuð þið þá".




Frá ritstjórn Rauða Fánans:

Rauði Fáninn, fræðilegt málgagn KFÍ (m.l.) er væntanlegur á næstunni. Skilafrestur fyrir greinar í blaðið er til 27. júní n.k. Þeir sem vilja skrifa greinar geta skilað þeim annað hvort í bókabúðina Rauðu stjörnuna eða í Pósthólf 1357 121 R. merkt "Rauði Fáninn".



## Verkfall hjá RR

Þátttaka á verkfallsvöktum hefur verið góð og hafa allir verkfallsmenn tekið þátt í þeim Þetta hefur orðið til þess að yfirmönnum R.R. hefur ekki tekist að fá þann lúmska áróður staðfestan, að verkfallið væri aðeins verk nokkurra æsingamanna. Rafvirkjar eru staðráðnir í að halda baráttunni áfram þar til sigur vinnst og gefast ekki upp þó ekki sé útlit fyrir samninga á næstunni

Nú hefur verkfall rafvirkja hjá Rafmagnsveitu Reykjavíkur (R.R) staðið í eina viku og ekkert bendir til að deilunni sé að ljúka. Ekkert hefur heyrst frá samningamönnum Reykjavíkurborgar annað en það að þeir séu ekki til umræðu um kröfur rafvirkja. Eins og kom fram í síðasta blaði er samstaða rafvirkja sterk, en til að efla enn frekar eru haldnir fundir daglega.